# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., NÓVEMBER 1894. | 11.

## 31. Kapítuli 4. Móses bókar.

Þá Ísrael móti Medíanítum
Móses senda vann.
„Hefnið drottins,“ svo hann sagði,
„sérhvern drepið mann.“
Evi, Rehem, Reba feldu,
ræntu fjöri Beors nið.
Aðra tvo þar andarvana
Öðlinga þeir skildu við.

Sveinbörn konur sviftið lífi,
en sérhvert óspilt víf,
ei sem hefir karlmann kendan
kaupi grið og líf.
Þær skulu yðr stundir stytta,
en stilla drottins heiptareld.
Herfanginu skjótt vér skulum
skifta, að drottins boði í kveld.

Konur, börn, og gull og gripir,
gafst þeim herfang þar.
Allan bart þeir fénað fluttu,
fyr sem boðið var,
rændu valinn vopnum, klæðum,
vígin brendu, húsin, garð,
Móses færðu, fjárins mikla
fenginn afla, stríðsins arð.

Drottinn mælti: „Móses, taktu
með hinn æðsta prest
og alla lýðsins öldungana
er það ráðið best.
Skoðið, teljið, skipta fénu
skal í jafna hluti tvo:
hermenn annan, heimafólkið
hinn skal fá, alt jafnast svo.

Feikna reiðr Móses mælti:
„Menn, hvort hafið þér,
konum öllum griðin gefið?
Glópska, sjá, það er;
þær, að Bileams boði, stálu
börnum Ísraels guði frá,
heift svo drottins hafði nærri
í hefndaskyni drepið þá.

„Í minn hluta, einn sé talinn“
æðstr drottinn tér,
„fimm af tugum fólksins hverjum
fórn, til dýrðar mér.
Af hálf-þúsundi hersins hverju
hafa skal ég líka einn,
í loga er brennist Levítanna
líkar mér hans ilmr hreinn.

Boði drottins hræddir hlýddu,
hlutum skiftu nú.
Smáfé, uxar, asnar, konur,
auðga þeirra bú.
Nægir það, um naut og sauði
nú skal ekki ræða meir,
en hvað margar ungar konur
í sinn hluta fengu þeir?

Konur! er það yðar drottinn?
Elskið þér það goð?
sem yðar fram til fórnar heimtar
fagurt drottins boð.

Tala hrunda hertekinna,
er héldu lífi þar,
tvisvar sextán þúsund, þeirra
þannig talið var.
Helming kvenna hermenn fengu,
hluti drottins verðr þá
þrjátigi og tvær, hann þar af skyldi
þægilegan ilman fá.

Blóðgirnd seðja böðla drottins,
bræðr, synir, feðr, menn.
Dætur sæta svívirðingum;
sjá! það lögmál gildir enn.

MYRRAK.

---

# TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

—:o:—

## VI. EIGUM VÉR AÐ TILBIÐJA GUÐ?

---

Svo er það orðið alkunnugt, að það þarf engrar sönnunar við, en að eins að minnast á það, að guðsdýrkuninni er svo hagað á þessum tímum, að margir hinna bestu manna þessara tíma hrökkva frá allri guðsdýrkun, eins og hún sé ekki samboðin göfugum mönnum eðr konum. Sjálft orðið tilbeiðsla vekr hjá oss hugmyndina um menn skríðandi, skælandi, flaðrandi. Henni fylgir hugmyndin um kreddur og serimoníur, sem hvorki hafa neitt að þýða, né nokkurn lífgandi krapt. Og svo sjá þessir menn, að þeir geta ekki fengið það af sér, að fara að dýrka guð á þennan hátt. Og, gætið vel að því, þetta stafar ekki af því, að menn séu ekki heiðarlegir, vandaðir, alvörugefnir, að þeim sé ekki ant um það, sem nefnist göfugt og háleitt og dygðugt líferni, heldr af einhverju öðru. Þeim finnst, að þegar þeir eiga að fara til kirkju og tilbiðja guð þar, þá verði þeir að afsala sér því, sem þeir hafa álitið göfugast og veglegast í sínu eigin eðli, þeir séu neyddir til að gera þar eitt og annað, sem virðingin fyrir sjálfum þeim bannar þeim að gera.

Og svo er hitt, að í eigin hjörtum þeirra kemr sú spurning fram, hvort það sé nú víst og áreiðanlegt, að nokkur sú vera sé til í alheim-

inum, sem hirði nokkuð um, að þeir gjöri þetta. Það er spurningin um það, hvort guð, ef hann á annað borð er til, sé vera sú, sem hirði um það, hvort þeir krjúpi á kné eða ekki, hvort þeir beygi höfuð sín til jarðar í bæn eða ekki, hvort þeir þylji upp hinar fyrirskipuðu bænir á bænabókunum eða ekki, hvort þeir yfir höfuð gangi til almennrar guðsþjónustu eða ekki. Og svo er enn önnur tilfinning miklu sterkari en þessi — og sem ég verð að játa að ég hefi sjálfr — nefnilega sú, hvort að þeir geti haft nokkra sanna, djúpa, hjartanlega virðingu og ást á guði þeim, sem heimtar, að þeir smjaðri fyrir sér með þessari hræsni og fagrgala. Það er alment álitið og víst réttilega, að það séu ekki sannarlega göfugir menn, sem vilji láta smjaðra fyrir sér. Það eru ekki göfugir menn, sem girnast það fremr öllu öðru, að múgrinn æpi fyrir sér og veifi höfuðfötum sínum; sem vilja láta menn standa upp og flytja sér lofgerðarræður um það, hvað þeir séu miklir menn, góðir menn og gáfaðir menn. Sá maðr sem á þetta skilið, honum er oftast ekki mikið gefið um þessi læti.

Það er ekki langt síðan að ég átti tal við kunningja minn og þótti mér hann lýsa þessari tilfinningu ágætlega; og ég veit að fjöldi manna er á sama máli; hann sagði: „Ef að nokkur guð er á himnum uppi, þá hlýtr hann að hafa skrítnar hugmyndir um menn þá, sem ætla að þeir þóknist honum með því í sífellu að vera að segja honum, hve stór hann sé." Hann getr ekki haft mikla virðingu fyrir þeim mönnum, sem hugsa, að þetta sé sannarleg tilbeiðsla, hugsa, að það sé vilji guðs, að þeir séu að vera að þessu ógeðslega skjalli.

Þetta sýnir ljóslega, hvernig hugsunarháttr margra manna er. En til þess að sjá og skilja þetta, þurfum vér að gera oss ljóst, hvað liggr í orðinu og hugmyndinni „tilbeiðsla." Hvað er tilbeiðsla? Hvað er það að tilbiðja eitthvað? Og umfram alt, hvað er það, að tilbiðja guð? Ef að vér tökum hugmynd þessa, og skýrum hana nákvæmlega fyrir oss, svo að vér þekkjum hana eins og hún er í insta eðli sínu, þá munum vér fljótt komast að þeirri niðrstöðu, að öll tilbeiðsla er eiginlega tilfinning sú, er vér köllum: aðdáun. Maðrinn tilbiðr það, sem hann dáist að, hvort sem það er fyrir ofan hann eða neðan, hvaða nafn, sem hann gefr því, eða hvort hann gefr því nokkurt nafn eða ekkert. Það er sama, í hvað mörgum trúarjátningum hann íklæðir þessa tilbeiðslu sína, það er sama, hvað margar kreddur hann hefir við hana, það er sama, hvað hann segir eða gjörir, þá tilbiðr hann ekki annað, en það,

sem hann af allri hjartans alvöru dáist að. Tilbeiðsla er því aðdáun. Það skulum vér einlægt hafa í huga og láta það lýsa oss sem ljósrák í myrkri, svo vér sjáum glögt, hvernig einn liðr tilbeiðslunnar tengist við annan.

En hvað þýðir nú þessi tilbeiðsla? Hvaða vald hefir hún yfir hjarta og lífi þess, er tilbiðr? Skýringin, sem ég gjörði á orðinu „tilbeiðsla,“ svarar spurningu þessari. Ósjálfrátt og óhjákvæmilega reynir maðrinn að líkjast því, sem hann dáist að. Ef að maðrinn í raun og sannleika dáist að og tilbiðr dýrðina guðs, þá breytist hann jafnframt, verðr henni líkr þessari hugmynd, sem býr í hjarta hans; dag frá degi drekkr hann dýrð þessa meira og meira inn í eðli sitt. Sem sýnishorn á því hvað ég meina skulum vér taka dæmi af Alexander mikla. Það er sagt að bók sú, er hann mat mest af öllum hafi verið Hómers Ilionskviða og að sú peróna í bók þeirri, sem honum geðjaðist best, sem varð fyrirmynd hans, hafi verið Achilles. Hann svaf með hana undir höfð, sér, og dreymdi úr henni á daginn. Hún var stjarna sú, sem leiddi hann á hinni löngu herferð sinni frá Grikklandi inn í miðja Asíu. Afleiðingin af þessu var mjög eðlileg. Hann tilbað þessa hugsjón af hermanni, og dag eftir dag, vitandi og óafvitandi lagaði hann líferni sitt og háttu eftir fyrirmynd þessarar grísku hetju. Aftr á móti skulum vér láta einhvern taka sér til fyrirmyndar einhvern dýrðling hinnar kaþólsku kirkju. Látum hann t. d. ekki lesa aðra bók en „the imitation of Christ,“ eftir Thomas a Kempis. Látum hann sofa með hana undir höfðinu, látum hann bera hana á sér, lesa kafla úr henni á hverjum degi, og sjá í þessari einu fyrirmynd sinni samandregna alla dýrð og fegurð, tign og mikilleika mannlegs lífs, — þá þarf engan spámann til þess að segja, hvaða stefnu breytni hans taki, engan spámann til að segja hvernig hann muni verða hið næsta ár og annað, eða að 10 árum siðnum. Hann hlýtr að breytast og verða líkr manni þeim, sem hann tilbiðr. Öldungis eins er því varið ef að þetta, sem tilbeðið er, er eitthvað óvirðulegt. Látum kvennmann einhvern meta það mest af öllu, hvaða stöðu hún hefir í lífinu, eða réttara í félagi því, sem hún lifir í. Í sjálfu sér er það ekki ilt, langt frá. En verði það aðalhugsun hennar, eða það, sem hún keppist eftir fremr öllu öðru, þá setr það sinn stimpil á hana. Hún fer til kirkju á hverjum sunnudegi; hún les bænabókina sína daglega; hún heldr föstur allar, hún fylgir hinum ytri siðum og ímyndar sér að hún sé að tilbiðja guð. En þó að

hún sjái það ekki sjálf, þá sjá þó nágrannar hennar, vinkonur hennar það, að hún í rauninni er að dýrka sjálfa sig, hún er að dýrka félagið, sem hún er að elta og eðli hennar breytist samkvæmt því.

Þetta hið sama kemr fram alls staðar annars staðar, í öllum öðrum atvikum lífsins. Ef að ég nákvæmlega kyntist hverjum einum af yðr, sem hér eruð, þá mundi ég fljótt vita, hvað það er, sem þér tilbiðjið. Ég þarf ekki að spyrja yðr að því, hvort þér tilbiðjið guð eðr eigi, eða hvort þér tilbiðjið eitthvað annað. Þegar ég þekki hvað þér eruð og hvernig þér eruð, þá þekki ég einnig, hvaða hugsjón það er, sem þér dáist mest að og dýrkið. Og ef að ég sé það, að einn eðr annar af yðr er farinn að hugsa um, að keppa eftir, að leita að einhverju æðra og betra, og ef að ég sé, hvað það er, og sé að því fylgir eitthvað af fegurð, af sannleika, af gæsku guðs, ef ég sé, að þessi hugsjón er fyrir ofan yðr, en að þér af alvöru keppið eftir að ná henni, þá þarf ég engan spámann til að segja mér, hvað þér verðið hin næstu ár. Ég veit það, að lögmál, sem er jafn óbreytanlegt og þyngdin, muni breyta yðr og gjöra yðr líka hugsjón þessari, sem þér tilbiðjið.

Til þess að skýra lítið eitt eðli þessarar tilbeiðslu, þá skulum vér nú virða fyrir oss nokkra hluti, sem menn vanalega álíta að séu aðalatriðið í tilbeiðslu guðs.

Það er þá mjög vanalegt, að þegar klerkar byrja guðsþjónustu sína, þá biðja þeir söfnuðinn að gera bæn sína með þeim. Maðr sá, sem biðst fyrir í einrúmi álítr, að hann sé að tílbiðja eðr dýrka guð. Eins er um familíu þá sem kvöld eða morgun kemr saman til þess að lesa upp einhvern kafla úr einhverri helgri bók, krjúpa svo á kné og lesa af kappi bænir sínar, eins og þeim var kent í æsku, og þeir hafa vanist á uppvaxtarárum sínum. Þegar þeir eru að gjöra þetta, þá ætla þeir, að þeir séu að tilbiðja guð. Menn biðja til guðs af því, að þeir eru hræddir við hann; menn biðja til guðs af vana; menn biðja til guðs af því, að þeim finst það skylda sín; menn biðja til guðs til þess að afstýra einhverju illu á ókomna tímanum; menn biðja til guðs af eigingirni, til þess að öðlast eitthvað hjá guði, sem þeir að öðrum kosti eigi myndu fá. En sé nú eitthvað af þessu aðalatriðið í bænagjörðinni, þá á bænagjörð sú ekki hið minsta skylt við guðsdýrkun. Það er svo langt frá, að það sé guðsdýrkun, að það hlýtr að vera viðrstygð í augum hans, sem ekki hirðir um útvortis búning, heldr um hitt, sem kemr frá hjartanu.

Eða tökum nú guðsþjónustuna í kirkjunni alment. Vanalega eru kirkjurnar kallaðar: guðshús. Fólk safnast saman þangað á hátíðisdögum, á föstudögum, með nýju tungli, á sunnudögum, til þess að dýrka þar guð í sameiningu, að því er þeir segja. En eru menn þar að dýrka guð með serimonium þeim sem þar fara fram. Svarið er komið undir því, hvort þessi ytri búningr guðsdýrkunarinnar sem þar kemr fram, virkilega komi frá hjartanu, sé sönn og veruleg aðdáun á því hinu guðdómlega, eða hvort það spretti af vana, eða af því, að menn ætli að hafa eitthvað út úr guði, af ótta eða þá kannske af eigingirni.

Þá eru hinar miklu helgigöngur. Vér skulum hugsa oss, að vér værum komnir til Róms á hinum mesta hátíðisdegi ársins. Strætin eru troðfull af fólki, því þenna dag ætlar páfinn sjálfr að vera einn í göngunni, og skulu fylgja honum klerkar hundruðum saman og kardínálar og biskupar kirkjunnar. En þegar myndin af Kristi (bambino) er borin um, fleygir fólkið sér niðr á strætin. Er þetta guðsdýrkun? Það getr verið, að það sé, og það getr verið, að það sé ekki. Eins var það, þegar Gyðingar söfnuðust alla vega að úr Gyðingalandi til Jerúsalem, til þess að taka þátt í guðsdýrkun þeirra í musterinu,—vér skulum láta það vera uppskeruhátíðina — þar koma þeir í þúsundatali, söfnuðust saman árla morguns um sólar uppkomu og sungu lofgjörðarsöngva sína. — Komu þar aftr seinna um daginn til þess, að hafa yfir einhverjar serimoníur. — Borgin var öll í uppnámi yfir þessari lofgjörðardýrð. — En var nú þjóðin þarna í sannleika að dýrka guð? Það getr verið. En það er þá undir því komið, hvort þeir í sannleika hafa dýrkað guð í hjörtum sínum, hvort þeir í sannleika hafa dáðst að honum, eða þeir voru að gera þetta, sem annað vanaverk, að reyna að sefa reiði hans, eða að gjöra honum til geðs svo að hann veitti þeim eitthvað. *

Það getr vel verið öldungis sams konar tilbeiðsla eða dýrkun og þegar maðr einn fer til Washington, leggr þar allar brellur, hefir öll brögð í frammi, skælir sig og skríðr fyrir einhverjum vildarmanni þeirra, er völdin hafa, dögum saman, vikum saman, mánuðum saman, svo að þessi maðr útvegi honum eitthvað fyrir sjálfan hann, eða vin

---

* Bambino kallast líkneskja af barninu Kristi í reifunum, með geislaljóma og englamyndum í kring. Er mynd sú borin um Róm við hátíðleg tækifæri, en lýðrinn krýpr á kné og tilbiðr hana er hún fer fram hjá.

hans, eða þorpið, eða borgina, sem hann býr í. Hann getr gjarnan fyrirlitið þann, sem hann er að viðra sig upp við og skríða fyrir, svo að hann nái hylli hans og hjálp.

Eins er því varið með mikil verk og líferni hinna helgu manna á hinum fyrri tímum kristninnar. Vér þekkjum flestir hann Símon stylites (súlukarl). Hann stóð árum saman upp á margra álna hárri súlu og fór aldrei ofan, en sat þar jafnt og þétt, nótt og dag, ár eftir ár, í brennandi sólarhita og hellandi rigningum. — Var hann að dýrka guð, eða var hann að ná hylli fjöldans í þeirri von, að hann einhvern tíma yrði kallaðr heilagr, yrði dýrkaðr sem dýrðlingr? Þannig er því og varið um hinar opinberu fórnargjörðir — brennifórnina, fórnir dýra eða blóma, eða reykelsis —. Þannig er það, er vér fórnum einhverju í lífi voru, þegar vér föstum á langaföstu, þegar vér neitum oss um eitthvað, sem oss langar til, annaðhvort af því, að trúin, eða prestrinn, eða almenningsálit, eða mannfélagið biðr oss að gera það. Er þetta nú guðsdýrkun? Ef vér skoðum þetta samkvæmt skýringu þeirri á orðinu tilbeiðsla, er ég áðan gjörði nefnil., að tilbeiðsla væri aðdáun, þá sjáum vér, að þetta getr eigi verið tilbeiðsla, nema því að eins að vér í hjarta dáumst að þeim, sem vér erum að tilbiðja.

Þegar vér tölum um guðsdýrkun, þá verðum vér að gæta þess, að hún kemr stundum í ljós og stundum ekki. Stundum verðr hjartað ekki vart við það, að maðrinn sé að dýrka guð, en stundum hrífr þessi tilfinning manninn og lyftir honum upp og gjörir hann styrkari, hreinni, göfugri, betri. Þó að hann hafi ekki hreift varir sínar, þó að tilfinningar hans hafi ekki látið sig í ljósi í neinni líkamlegri hreifingu, þá er þó í hjarta hans sannarleg og hrein guðsdýrkun ef að hann hefir þessa einföldu hreinu aðdáun fyrir því, sem er honum æðra. Og svo framarlega, sem maðrinn hafi hana, beri hana í hjarta sér, þessa hreinu aðdáun, sterka og öfluga, er ríki hið innra hjá honum, ekki að eins einstaka sinnum hvarflandi, heldr dag eftir dag, þá hlýtr hún á einn eðr annan hátt, að láta sig í ljósi. Maðrinn getr ekki látið vera, að láta meira eða minna bera á sínum innra manni í tali sínu, hann getr eigi látið vera, meira eðr minna, að sýna trú sína eða guðsdýrkun í breytni sinni. Það getr vel verið, að það komi eigi í ljós eftir fyrirskipuðum reglum guðfræðinganna, en dýrki maðrinn af einlægni hjarta síns það, sem er satt og göfugt, þá hlýtr það, að mynda og laga lífsstefnu hans, það ræðr gjörðum hans, ræðr tali hans, það kemr ýmis-

lega í ljós hið ytra, þótt það geti verið á mjög margbreytilegan hátt eftir ástæðum og lífskjörum.

Af þessu leiðir — og er það mjög athugavert —, svo framarlega sem dýrkun þessi, þessar hræringar hjartans eru meira en látæði eitt, — að margir þeir eru sannir dýrkendr guðs, sem sjálfir ætla að þeir séu það ekki. Ég hefi hitt marga menn, sem sjálfir gera enga kröfu til þess að vera guðsdýrkendr. En þó vakir fyrir huga þeirra einhver gömul hugmynd um guðsdýrkun. Þeir ætla að guðsdýrkunin sé í því innifalin, að fara í kirkju, gjalda presti, vera til altaris, trúa á ritninguna, að til þess að geta dýrkað guð þurfi menn að binda sig vissum siðum eða serimoníum. Þetta vilja þeir ekki hafa. Þeim velgir við því, að bæna sig fyrir allra augum, þeim býðr við kreddunum, þeir vilja ekki vera hræsnarar. Það getr nú vel verið að þeir séu engir guðsdýrkendr. Það getr vel verið að þeir dáist ekki að neinu því sem er guðlegt, neinu því sem er fyrir ofan þá, sem lyftir mönnum upp og blæs þeim í brjóst hinum göfugustu hugmyndum heimsins, en það er alls eigi sjálfsagt, að þá skorti þessa dýrkun, þessa hreinu tilbeiðslu, þótt þeir sjálfir hugsi sér það, eftir því sem vanalega er skilið við tilbeiðslu. Þetta getr vel verið maðr sem einlæglega elskar heimili sitt, sem tilbiðr konu sína sem ímynd allrar kvennlegrar fullkomnunar. Þetta getr verið maðr, sem verðr hrifinn af hinu elskulega látbragði barnanna við kné sér, sem sér í þeim þenna óútgrundanlega, óskiljanlega, undarlega leyndardóm, lífið. Þetta getr verið maðr, sem verðr hrifinn af hinum fögru og inndælu hlutum náttúrunnar umhverfis hann; maðr, sem tekr upp laufblaðið á götunni og hugsar og hugsar, þangað til að þetta litla, að því er virðist ómerkilega laufblað, leiðir hann á ferð út í hinn óendanlega geim og hann stendr þar höggdofa og undrandi fyrir þessum mikla leyndardóm alheimsins, lífinu. Hann kann að tárfella yfir þessu litla blómi eins og skáldið Wordsworth, hjarta hans kann að titra af viðkvæmni, er hann heyrir haföldunn glymja á grjótinu á sjávarströndinni, eins og sála söngmannsins titrar við orgelhljóminn. Hann kann að verða hrifinn af öllu því, sem er göfugt og fagurt og satt og mikilfenglegt í heiminum. En hjá slíkum manni er tilbeiðslan til, og hann tilbiðr guð, þótt hann aldrei hafi kirkju séð, og aldrei lesið eina línu í hinni helgu bók, sem kölluð er, á allri æfi sinni. Maðr sá, sem verðr snortinn, verðr hrifinn af fegurðinni, af sannleikanum, af kærleikanum, sem getr gripið tign heimsins,

hann klifrast tröppu af tröppu upp hið gulldrifna marmararið tilbeiðslunnar, er „liggr í gegnum myrkrið upp til guðs," alt að einu, þó að hann finni eigi til þess sjálfr, þótt honum sé það óljóst og það sé myrkri hulið fyrir honum.

Af þessu leiðir hins vegar að margir menn geta verið svo smámunasamir, að þeir kjósa helst mintunni, anísinn og kúmenið, þeir leggja mesta áhersluna á bænagjörðir, kirkjugöngur, hátíðahöld, þeir sveipa fötunum að sér þegar þeir á götunni ganga hjá frjálstrúarmanni; þeir eru hræddir um að þeir sýkist af vantrúnni og guðleysinu, ef þeir snerta hann, og það kann vel að vera, að þessi ákaflega mikli guðsmaðr hafi ekkert það í fari sínu, er heyri til hinni sönnu tilbeiðslu á guði hinum lifanda. Það er oft um þá menn, sem þannig dýrka guð, að þeir eru þröngsýnir í mesta máta, þeir lifa eingöngu fyrir sjálfa sig, hugsa eingöngu um sig og ættfólk sitt, um vellíðan þeirra, sem þeim eru nátengdir, þeir sækjast eftir persónulegum hagnaði, eftir pólitiskri eða félagslegri stöðu fyrir sjálfa sig. Þeir vilja láta titla sig: herra, herra; sitja í hinum æðstu sætum samkundunnar — en, — þó geta sálir þeirra eigi orðið hrifnar af göfugri, eðr veglegri tilfinningu, þeir verða eigi hrifnir, þeir lyftast eigi upp af neinu, sem er göfugt og háleitt. Þó að slíkir menn sæki kirkju hvern einasta dag vikunnar, þó að þeir lesi ritninguna, þó að þeir lesi bænir kvöld og morgna alla sína æfi, þá eru þeir þó engir sannir trúmenn; þeir geta ekki kallast guðsdýrkendr.

Svo að vér nú getum dálítið skilið í breidd og dýpt þessarar tegundar tilbeiðslunnar, þá skulum vér snöggvast virða fyrir oss, hvernig hún kemr fyrir. Alt til þessa hefir mikill hluti hinna mestu og bestu manna heimsins verið útilokaðr frá því, að taka þátt í lofgjörðarsöngnum, er hljómað hefir um allar aldir: dýrð sé guði á upphæðum, einmitt fyrir það, hvað játningarnar hafa verið þröngar, fyrir smásálarskap mannanna, fyrir ráðríki þeirra og einfeldni.

Fyrst skulum vér þá skoða þá dýrkendr, sem hér um bil eingöngu, eða þá að mestu leyti dýrka fegurðina í heiminum. Menn geta fljótt séð, að hér er átt við listamennina. Eru þeir guðs dýrkendr? Er listin (hvaða list sem það nú er) ein tegund guðsdýrkunarinnar? Vanalega hafa menn eigi álitið það. Puritanar á Englandi ætluðu, að þeir gerðu guði þénustu mikla, þegar þeir fóru inn í kirkjurnar og brutu og brömluðu með sverðum og spjótum alt þar inni, sem var fagurt og

listfengt. Og enn eru þær kirkjur til, eða trúfélög, er ætla að orgelin séu uppgötvun djöfulsins, sem ekki mega heyra fagran söng til dýrðar guði. En eftir því, sem hugmyndin um guð hefir verið skýrð í undangengnum ræðum, þá er hann uppspretta fegurðarinnar, sannleikans og kærleikans, þessara þriggja meginkrafta mannlegs lífs. Og þegar heimrinn fer að skilja breidd og dýpt guðdómsins, þá verða þessar þrjár meginhvatir mannlífsins skoðaðar sem sannarleg guðsdýrkun.

Rétt nýlega, að heita má á tímum menningarinnar, er heimrinn farinn að hirða um fegurð náttúrunnar. Reyndar geta menn sagt, að hinir fornu Grikkir og Gyðingar og nokkrar aðrar fornþjóðir hafi tekið eftir ýmislegri fegurð himinsins, er sífelt var fyrir augum þeirra; en það er fyrst á nýrri tímum, að skáldin hafa kveðið um fegurð náttúrunnar, að landslaginu hefir verið lýst í háfleygum orðum og málað upp á léreft með mikilli list; það er fyrst á nýrri tímum, að menn hafa hugsað sér, að þetta mikla ríki jarðar undir fótum vorum og alt í kring um oss opinberi eðr auglýsi þann anda fegurðarinnar og lífsins, sem sé verðr þess, að hinir vitrustu menn veiti honum nákvæma eftirtekt. Ég hlýt því að álíta, að sá maðr, sem hrifinn verðr af fegurð náttúrunnar, sem fyrir augun ber, að sá maðr, sem verðr hrifinn af yndisleika uppgöngu sólar og niðrgöngu, að sá maðr, sem verðr hrifinn af hinum ótakmarkaða geimi yfir höfði hans, af tign fjallanna og hamrahnjúkanna, að sá maðr, sem verðr snortinn af þessari fegurð heimsins, hann sé ekki einungis náttúrudýrkandi, heldr guðsdýrkandi. Hann dýrkar guð þann, sem hefir opinberað sig, sem hefir talað í fegurð þessa heims. Og hann er trúmaðr og guðsdýrkandi að þessu leyti, þótt hann hirði eigi neitt um það, sem vanalega er kallaðr sannleiki, jafnvel þó að breytni hans sé ekki siðferðislögmálinu samboðin, þótt hann sé siðleysingi. Vér getum hér tekið til dæmis annan eins mann og Byron. Þegar Byron lýsir þrumuveðrinu í Mundíufjöllum — sem er eitthvað hið fyrsta, er ég hefi séð af því tagi — og heldr svo áfram og segir:

„And this is in the night. Most glorious night!
Thou wert not sent for slumber! let me be
A sharer in thy fierce and far delight,
A portion of the tempest and of thee!“

Eða þegar hann í tunglsljósinu dýfir árinni í vatnið og segir:

Clear placid Leman! thy contrasted lake
With the wild world I dwelt in, is a thing
Which warns me with its stillness to forsake
Earths troubled waters for a purer spring.

Eða þegar hann lítr til stjarnanna, sem hugr manna hefir staðið til um allar aldir, og segir:

Whoever looked upon them shining
And turned to earth without repining
Nor wished for wings to flee away
And mix with their eternal ray?

Mér er sama, þótt þér segið mér, að Byron hafi ekki hirt neitt um sannleika, og að hann hafi verið siðleysingi hinn mesti, þá var hann þó fegurðar dýrkandi að því, er snertir þessa dýrðlegu opinberun guðs, er vér köllum fegurð og þá var hann líka guðsdýrkandi. Eins er um listamanninn, sem málar myndir, sem sker út líkneskjur, sem syngr kvæði, sem úthellir sálu sinni í inndælum söng, sem hefir eyra, er getr hlustað og greint þessa undarlegu dularfullu hljómfegurð og samræmi, sem aðrir hafa ekkert skynbragð á, er vanta þessa gáfu. Þessir listamenn eru dýrkendr fegurðarinnar og hún er mjög áríðandi hluti af guðsdýrkuninni.

Þá er að minnast á hið annað meginatriði: sannleikann, sem nær yfir alt það, sem vanalega eru kölluð vísindi. Tökum til dæmis þá menn, sem alla æfi sína af göfgi hjartans verja lífi sínu til þess að leita sannleikans; þeir hafna öllu smjaðri og dekri og embættum, svo að þeir geti haldið áfram rannsóknum sínum, þeir hafna auði og peningum og segja með Agassiz, og eru það einhver hin göfugustu orð, sem ég hefi heyrt: „Ég hefi engan tíma til þess að safna mér peningum„ Hann hafði séð hugsjón sannleikans hvarfla fyrir augu sér og var honum meira í mun að ná honum, en afla sér peninga. Tökum til dæmis efnafræðinginn, sem grefst eftir samsetningu hinna undarlegu hluta, er vér köllum smáagnir (Atoms). Hann klýfr ögn frá ögn til þess hann kemr svo langt, að hann getr ekki séð agnirnar, og þá uppgötvar hann allrahanda undrunarverð verkfæri, til þess að ná og halda föstu því, sem augað getr eigi séð, höndin eigi gripið og eyrað eigi greint. Hann eltir þetta lengra og lengra inn í hinn ósýnilega heim, þangað til hann loksins opnar frumhvolf lítið, er ímyndunin ien getr gripið, og þegar hann þar er að skoða hið óendanlega smáa, þá stendr hann augliti til auglitis við hinn óskiljanlega guð. Aftr eru aðrir eins og Newton, er eyða æfi sinni meðal stjarnanna umgirtir af hinu óendanlega stóra. Þeir halda áfram leit sinni, þangað til þeir verða gjörsamlega hrifnir eins og Kepler og segja: „Ó, guð! ég hugsa þær hugsanir eftir, sem þú hugsaðir fyr.“ Tökum jarðfræðinginn, sem með erf-

iði miklu ár eftir ár veltír um jarðlögum þeim, sem aldírnar hafa hlaðið upp undir fótum vorum, sem finnr farið eftir regndropann, er hann féll í mjúkan sand fyrir hundrað þúsundum ára, sem les sér út mynd og lögun laufblaðsins, er mótaðist í Clay-ið fyrir hundrað þúsund eða miljón árum, sem finnr sporin eftir útdauðar fuglategundir mótuð á steina og af þeim getr ráðið hvernig fuglinn hafi verið og á hveiju hann hafi lifað. Eru nú þessír menn eigi sannir dýrkendr guðs, sem verja kröftum sínum og lífi til þess að uppgötva sannleika guðs. Það getr vel verið, að þeir hirði ekkert um listir eða skáldskap eða söng, hirði ekkert um neitt það, sem menn kalla trú eða trúbrögð; þeir lifa kann ske árum saman í skógunum og hirða hvorki um kirkju eða prest, en alt fyrir það er líf þeirra guðs dýrkun og þeir standa himnaföðurnum nær, en margr klerkrinn og kirkjumaðrinn.

Þá er að geta hinnar annarar tegundar guðs dýrkunarinnar, mannúðarinnar og kærleikans. — Það er tilbeiðsla þeirra manna, sem hafa látið verk sín skína sem friðarboga í hinu sífelda steypiregni mannlegrar eymdar og sorgar og tára. — Þeirra manna, sem hafa varið lífi sínu til þess, að hjálpa hinum þurfandi, að létta byrðar mannkynsins, að berjast fyrir frelsi og mentun. — Það er tilbeiðsla þeirra manna, sem hafa verið píslarvottar eða hetjur, spámannanna, forvígismannanna, sem hafa barist fyrir sannleikann, kann ske látið lífið fyrir hann stundum á bálkestinum. Þessi tilbeiðsla er æðst allrar guðs dýrkunar og vér leggjum á það hina ströngustu áherzlu, því hún er undirstaða allrar sannrar velferðar mannkynsins. Vér getum verið án margs, sem menn kalla vísindi og listir, en mannfélagið getr ekki verið til og þroskun eðr fullkomnun þess, er ekki hugsanleg, nema menn haldi fast við það, sem vér álítum gott, og keppi eftir að líkjast hugsjón hins siðferðislega góða lífs.

Menn geta þannig á þrennan hátt tilbeðið guð, en þó er það ófullkomið að binda sig að eins við einn einstakan tilbeiðslumáta. Hin fullkomna tilbeiðsla er rétt samblöndun þeirra allra.

Nú ætla ég að koma með þá spurningu, hvort guð hirði nokkuð um það, að vér tilbiðjum hann. Vér höfum séð það að vér hugsum oss guð sem meðvitundarfullan, skynsemdarfullan og góðan. Guð er faðir vor, og það, að hann sé faðir vor, svarar spurningunni. Ég trúi því, að guð hirði um tilbeiðslu vora, ég trúi því, að í hjarta hins óendanlega og eilífa vakni tilfinningar ástar og viðkvæmni, þegar þess-

ar tilfinningar vakna í vorum hjörtum. Yðr þykir það kann ske skrítið en þó er það svo, að þegar ég stappa niðr fætinum á jörðina, þá ná verkanir þær í óendanlegum smáum stíl til sólarinnar, en eins og það skeðr eins verka hinar minnstu hreifingar ástar eðr tilbeiðslu í hjörtum vorum og senda hreifingar sínar upp að hásæti himna-föðursins. Hér á jörðunni álítum vér það ekki góðan og göfugan mann, sem hættir að hirða um börn sín, hirða um hvað þau hugsa um hann. Þegar fyrirtaks gáfumaðr fer að leika barnaleiki við börnin sín, að halda á þeim í fangi sér og dansa með þau, þá sýnir hann einmitt hina mestu göfgi sálar sinnar. En er þá nokkr ástæða til þess, að vér köllum það ógöfugt á himnum uppi, sem vér köllum göfugt og veglegt hér á jörðu.

Þá er er en ein spurning eftir og er hún þessi: Er það í raun og veru þess vert, að vér höfum sérstakan dag og sérstakan stað og sérstaka aðferð til þess að tilbiðja guð? Ég hefi tekið eftir því, hvað snertir veraldleg störf, að þau eru vanrækt, stundum algjörlega, ef að þau eru gjörð af handahófi. Menn hafa tíma til þess að nema vísindi, ef þeim er nokkr áhugi á því. Menn hafa tíma til að sinna fögrum listum, ef að þeim er ant um það. Menn hafa tíma til að rækja heimili sitt, ef þeir á annað borð elska það. Menn hafa jafnan tíma til að ræka störf sín. Þannig geta menn haft tíma til alls, í heiminum. Vér höfum erft þenna dag, sem vér notum til guðsþjónustu frá fyrri tímum, og ég vil helga hann til þess, sem ber vott um hinar veglegustu hvatir mannsins og göfugustu tilfinningar. Og ég vildi ekki láta nokkurn hlut svifta mig þeim forréttindum og tækifæri að tileinka, að minnsta kosti nokkurn hluta dags til þeirra hluta, sem göfugastir eru allra, og snerta hinn mest varðandi hluta sálar minnar. Hinsvegar getið þér glögglega séðhvernig það er samkvæmt skýringu þeirri, er ég hefi gjört á tilbeiðslunni og tilhlýðilegt, að vér opnum opinber bókasöfn og myndahallir á sunnudögum og gjörum það svo auðvelt, sem hægt er, fyrir fólk í borgunum, að komast út á land til skemtana og hressingar á þessum helgu dögum. Ég vil halda þessari stund, sem guðsdýrkunartíma, svo að vér getum varið henni til að efla og þroska og bæta kærleikann, breytni vora og hegðun. En svo vil ég og gjöra mönnum það svo auðvelt, sem auðið er, að fremja tilbeiðsluna á þenna margvíslega hátt, sem ég hefi talað um; að virða fyrir sér fegrðina í myndahöllunum, að rannsaka sannleikann og lög guðs í bókhlöðunum

og svo að heyra og sjá alt það út á landi sem er svo fagrt og yndislegt og hressandi fyrir þá, sem lokaðir eru inni í borgunum meginhluta ársns. Þannig getr hin þrefalda guðsdýrkun haft nægilegt sviðrúm á þessum eina frjálsa degi vikunnar.

Nú skal ég með svo fáum orðum, sem mér er mögulegt skýra hugsjón mína um staðinn sem guðsdýrkunin á að fara fram á. Ef vér hefðum ekkert hús til að koma saman í, vildi ég hafa það einhvernveginn á þessa leið: Það ætti að vera fagrt að byggingarlagi, svo fallegt sem efni leyfðu. Það ætti að vera ímynd fegrðar og sannleika. Það ætti að benda oss upp á við, beina öllum hugsunum og tilfinningum vorum til hæða. Svo vildi ég hafa í því fallegan söng, svo fagran söng sem hljóð færum og mannaröddum væri mögulegt að framleiða. En það sem mestu varðaði væri þó það, að það enn þá meira en Westminster Abbey* benti mönnum og minti menn á afreksverk hinna miklu andans manna. Ég vildi hafa í húsi þessu enn þá meira af menjagripum og málverkum og myndastyttum, af öllum fögrum hlutum, er minna á dáðrík verk, en í nokkurri kaþólskri dómkirkju. Brjóstmyndir, myndastyttur, málverk, menjagripir og alt, sem minnir á hina miklu og göfugu menn sögunnar ætti að vera þar, svo að hvar sem augað liti, þá kæmi mönnum til hugar eitthvert göfugt verk. Menn ættu þá að sjá einhverja mynd, er vekti hugann til að hugsa um einn eðr annan, er hefir unnið mannkyninu þarft verk í listum, í vísindum, í mannúð og mannkærleika í öllum hinum breytilegu kjörum og störfum lífsins. Hinir miklu menn sögu vorrar ættu að vera þar. Loftið í húsi þessu ætti að anga af sætum ilm er endrminning verka þeirra kveikti. Það ætti að titra af andlegri hreifingu, er hin miklu verk þeirra vektu. Og, hvar, sem á liti, ætti sálin að sjá eitthvað, er vektu hinar göfugustu hvatir hennar, eitthvað er lyfti manninum upp og hvetti hann til dáðríkra og dygðugra verka.

Svo ætti öll hin innri starfsemi kirkjunnar að svara til þessara þriggja tegunda guðsdýrkunarinnar. Það ætti að vera eitt aðalatriðið í starfi voru, að leiða augun til að sjá og hjörtun til að finna allar þessar óendanlegu tegundir fegrðar heimsins. Það mætti ekki skoðast óguðlegt af oss á sunnudagaskólanum eða í prédikunarstólnun að liða í sundr og skýra vísindaleg efni, að rekja sporin guðs í náttúrunni. Um fram alt ætti það að vera vort mark og mið, að gjöra karla og konur

* Þar eru grafnir mestu atkvæðamenn Englands um fleiri aldir.

viðkvæmari, hreinni, göfugri og hræsnisminni. Með þessari dýrkun sunnudag eftir sunnudag og dag eftir dag mundum vér styðja að því, að flýtja fyrir tíma þeim, er mannkynið væri orðið fært um að syngja;

*Allr heimr inn lofar þig þú hinn eilífi guð!*

# 100
# ritningarstaðir, er sanna Unitaratrú.

[Þýtt].

—:o:—

XVI. Faðirinn er kallaðr guð Krists eins og guð kristinna manna. „Jesús sagði til hennar: ..................far þú til bræðra minna og segðu þeim, eg mun upp stíga til míns föður og yðar föður til míns guðs og yðar guðs. Jóh. 20, 17.

XVII. Postulinn aðgreinir guð frá Kristi og segir, „að hann (guð) sé hinn sæli og alvaldi konungr konunganna og drottinn drottnanna, sem einn saman hefir ódauðleikann. 1. Tim. 6, 15 og 16. Postulinn neitar þarna að Kristr hafi ódauðleika og sé konungr konunganna.

XVIII. Ennfremr segir sami postuli, að "Faðirinn sé hinn eini guð og enginn annar: „.........því jafnvel þó guðir séu kallaðir, svo vel á himni sem á jörðu. eins og sagt er: margir eru guðir og margir drottnar, þá höfum vér ekki nema einn guð. Föðurinn frá hverjum alt er".
1. Kor. 8, 5—6.

XIX. Kristr sagði sjálfr, að hann hefði valdið gefins. „Allt vald er mér gefið á himni og jörðu". Matt. 28, 18.

XX. Hann neitar því beinlínis sjálfr, að valdið til að gjöra kraftaverkin komi frá sér sjálfum, heldr frá „Föðurnum" eða guðs anda. „Faðirinn, sem í mér er hann gjörir verkin. Jóh. 14, 10. og ..................„Ef ég rek út djöfla fyrir guðs anda". Matt. 12, 28.

XXI. Hann segir beinlínis, „að verk þessi vitni, ekki um vald, sem hann hafi, heldr að Faðirinn hafi sent hann. Jóh. 5, 36.

XXII. Kristr segir það skýlaust, að verkin hafi verið unnin ekki í sínu, heldr í „Föðursins" nafni. Jóhannes 5, 25.

XXIII Hann segir, að hann sé ekki sjálfr höfundr að sinni

eigin kenningu. „Jesús svaraði þeim og sagði: minn lærdómr er ekki minn, heldr þess sem mig sendi". Jóhannes 7, 16.

XXIV. Hann segir, að guð „Faðirinn" hafi innsiglað sig. Jóh. 6, 27. Hann hafi vald sitt frá honum. [Meira].

---

BORGAÐ „DAGSBRÚN".

Árne—Jónas Magnússon. Churchbridge — Guðmundr Guðbrandsson. Hecla—Jóhann Straumfjörð. Keewatin—Gísli Jónsson. Lundar P O—Jóh. Th Oddson [I & II]. Minneota—Barney Goodmanson[I]. Seattle—Sölve Sölvason. Winnipeg—Jón Hannesson,Þorbergr Féldsteð, MOSmith Sigrgeir Stefánsson, Jón Sigvaldason, Kristm Sæmundsson, Guðm. Thordarson og Gunnar Sveinsson.



G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

"DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.
Árgangrinn kostar í Vestrheimi ........................ $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér ..................... $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar ..................... Kr. 2,00
—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——
Skrifstofa blaðsins er hjá
Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.